og hrein, dijrkadi helga Sidi, hafdi Sio Ar, i Hiarta klaar, halldid med Egta-Mañi, Meydoomi fraa, sem Frædiñ tiaa, fañst opt i helgum Rañi.

Vetur muñ Attrædt Floora Frw, feingid hafdi ad lifa, wt wr Musteri et gieck sw, um̃ þad Lucas ried skrifa, Nóottu sem Dag, med helgum Hag, hærstum Gudi þioonandi, fastadi tijdt, og bad miog blijdt, blessud i Eckiu Standi.

Þessi ad Stundu þaangad gieck, þackadi DRottni einum, med Vijsdooms Anda vitnad fieck, vel af Guds Syni hreinum, til allra þar, sem eins Hugar, eptir Lausniñi þraadu, med Hugar Sorg, i sømu Borg: Saal mijn ad þessu gaadu.

Skijrlijst Gudi giediast vel, goodri Skickan kann vallda, HErrañ ælijtur Hiartans Þel, hañ vill þad endurgiallda, þad Hioonaband, er heilagt Stand, sem heidarlega er vandad, Oflerkad, hreint, lioost bædi og leynt, med Losta-Gyrnd ei blandad.

Einmana Stand og Eckiudoom, opt fær Guds Born ad reina, enn DRottins Hiaalpar Hondiñ froom, hugga vill þau alleina, Eckiurnar hann, adstoda kann, Einstædings Saudum biarga, hanns Giædskann þijd, og Blessan blijd, breitt hefur so

vid

vid marga.

Eckiann sw sem i Sarepta, Sama-Stad atti fordum, Adstod hreppti af Elia, eptir Guds Nadar Ordum, hennar Lijfs-Biorg um̄ Maalin̄ mørg, miøg so lijtil þo væri, drygiast so vann, ad DRottinns Mann, dvaldi þar i Hallæri.

DRottinn Ranglatum hootar hardt (sem helgir Spamenn greina), upp skuli taka Eckiu Skart, Einmana hroopa og kveina, Obyriur sen̄, og Eckiu-Menn, a einum Degi verda, þad Harma Bøl, og Hefndar Kvøl, Hofmoodin̄ kann ad skierda.

Eckia þessi a Juda Jord, JEsu miøg eptir þrædi, med Bindindi og Bænagiord, blijdann Gud dijrka nadi, skijrlijf og klaar, sijn Elli-Ar, aflifdi, i Dygdum sønnum, haalldrud þar, Þolgiædi bar, þocknadist Gudi og Mønnum.

Audnadist henni Æra sw, med Augum sijnum skoda, Heimsins Lausnara helgann nu, hinum ried Fognud boda, sem væntu þar Guds Vitiunar, Þongoodir langar Tijdir, ad Heimi sie, þad Hialpræde, af Hædum veitt um̄ sijdir.

Er þad hiartannleg Oskinn mijn, Endurlausnarinn kiæri, Astvina þegar Adstod dvijn, andlega Huggun færi, Naalægd þijn mier, so naai eg hier, ad niootu Gledi Samvista, og eignast þig, sem elskar mig, um̄ Eilijfd hiaa þier gista! Amen.

## 17. Psalmur.

Um̄

## Um̃ Helmreysu Josephs og Mariu.

Ton, Lof saung Gudi Mey Maria, etc.

OG sem þau høfdu allt fullgiørt, eins og Løgin̄ wtkrøfdu, sneru þau bædi aptur ört, i Nazareth so tøfdu; en̄ Sveirnstu̅ þar, sem vonlegt var, voox og styrktist i Anda, med Vijsdooms Frægd, Guds Nadar Nægd, nam hiaa þeim ad standa.

Ei skalltu, Saal mijn, Um̃svif þijn, wtrietta i Hwsstioorninni, fyrr enn ad Gudi G.olldinn sijn, greidir af Hendi þinni, hanns Ottinn er, til alls Goods þier, Upphaf, Fullkomnun lijka, af Gudi þa, munt frijda faa, Farsælld Blessunar rijka.

Þioonustu Drottins þu skallt fyrst, þijdlega af Hendi laata, aptur aa mooti aatti vijst, Athvarf i sierhvorn Maata, Ervidi þitt, og an̄ad hitt, sem wtkrefur Forsioon dijra, hanns Gjædsku fel, Gud mun þvi vel, til goodra Nota stijra.

Hafdu Gud æ fyrir Augum þier, allt kann hann gott ad veita, ef þu hanns Rijkis ætijd hier, aastundar fyrst ad leita, hanns bliid og hrein, Blessun er ein, betri enn Tiju Synir, i Boli og Prau, best hiaalpa maa, þo bregdist allir Vinir.

Fyrir Barninu brijn þu fyrst, blessadann Drottinns Otta, kienn þvi ad hata Heimsins Lyst, med holldlegum Syrnda Pootta, þijdann laattu, þad læra nu, lofflegt Handa Erfidi, so dagleg Brauds, og ærlegs Auds, afli med christnum Sidi.

Þu

Þu skallt vita ad þetta Tvennt, þienar riett Christnum Manni, Dijrkun Guds Orda og Dagleg Ment, Dæminn trw eg þad sanni, sw Ydian best, ef innrætest, Avoxt Blessunar færir, alldrader þad fær erfidad, sem ungur fyrri lærir.

Smeckurinn sa sem kiemst i Kier, kann eigi burtu færast: Hvad ungur tamdi i Æsku sier, olldrudum verdur kiærast: Eikann vid Christ, skal allra fyrst, inne i Hiarta-Rootum, Groodursetiast, og Grundvallast, med goodum Dygda-Hootum.

JEsus i Anda vaxa vann, med Vijsdooms Proska sijnum, stodug Guds Naad ried styrkia hann, strax i Ungdoomi sijnum; eins lijka skier, ef Barn þitt ber, i Briooste og Hiarta-Ranni, Dygdanna Sæd, Guds Giædska og Naad, giefst hinum unga Manni.

Andleg Vitska Guds Ottinn er, sem ungum byriar læra, Tignar-Ment þessa temdu þier, i Trwnni, Barn mitt kiæra; Guds Kraptur haar, þijn Ungdooms Ar, eflir i Dygdum hreinum, hann einann vid, med helgum Sid, hallt þier i ollum Greinum.

Borninn, JEsu, þa lattu Lyst, læra af Dæmi þijnu, ad helgum Dygdum Veru og Vist, veiti i Hiarta sijnu, Skinsemd og Raad, Skaparans Naad, skiæra so hreppa meigi, i hvorium Stad, þier halliist ad, enn Heiminum sæti eigi! Amen.

## 18. Psalmur.

Ungt

## Um̃ Vitrun Josephs.

Ton, Sa friȧls vid Løgmaal fæddur er, etc.

JOseph byrtist i Draumi dijr, Drottins Engill, og sagdi: Tak þig upp skiott og halltu hijr, hiedan̄ ad snøggvu Bragdi.

Þu skallt Barnid og mæta Mey, med þier i burtu flytia, leingi þvi fresta æattu ei, til Ægyptalands vitia.

Til þess eg aptur tiaai þier, Tijmum skalltu þar eyda, Herodes hviad hyggur sier, heilagan̄ Sveinin̄ deyda.

Hugleid, mijn Saal, Guds nijta Raad, med Rækvæmd grunda hana, vill hann ecki ad Vondsku-Raad, veiti Riettlaatum Bana.

Opt hefur DRottinns Andi mig, vid illum Hææska varad, og aa Hreckvijsum Heim sins Stig, i Hættunni Lijf mitt sparad.

Enn þo Guds Ord mier æavijsi, Illt ad fordast i Heim̄i, til Vareigdar i Velgeingne, valla trwi eg mig dreyme.

Sææleysi Hollds ins gief eg Taum, giæti lijtt Skylldu minnar, fram̄leidist so mijn Æfinn aum, i Ominni Syndarinnar.

Veglega Joseph Vitran hlaut, af vijsu Drottinns Raadi, fyrir þad Jesus Fridar naut, a framendi Manna Laadi.

Neld

Reid þu þig Saal miin ecki aa, Opinnberanir sliikar, vill Gud þier ecki veita ad siaa, Vitranir Spaadooms riikar.

Spaadooma Tiiminn uti er, Ord Drottinns þetta sanna, varast ad stofni i Villu þier, Viisindinn Fals-Spaamanna.

Draum-Spekinganna Heimsku-Hoot, Hieggia skalltu meta; briota þeir Drottinns Bodum moot; blindad Saalina gieta.

Hefur Gud stoora Andstygd aa, illum Spaasagnar Liidum, Vegum Drottins þeir viikia fraa, viela einfallda tiidum.

Þu maatt vita ad er þad ein, Afgudadiirkun liika, af þvi fordast aa alla Grein, Ovitsku fremia sliika.

Vilia Drottinns þu merkia maatt, miog vel i helgum Frædum, þar vid þig hallda ætiid aatt, epter Spaamanna Rædum.

Haalf-Verk er Speki Holldsins naum, Haalf-Verk Vitsmunir allir; Heimsins Skynsemid ei gief ad Gaum, giæt þiin so ecki fallir.

Englanna Sionir ecki hier, i voru Holldi siaaum, siidar meir þessa Vegsemd vier, ad Vilia Drottinns faaum.

Myrkranna Engill, merk þad vel, Monnum kann Svika leita, megnar hann opt med Illsku Þel, i Engil Liooss sins sier breyta.

Samuels Kyrtli klæddur hann, kom ur Iordunni fordum, Konunginn Saul so kvedia vann, med

med kolldum Styggdar Ordum.

Konginum var Gud vikinn fraa, villdi ei Ansvar giefa, Drauma ä fieck ei nie Sioonir sia, so fiell i Vijl og Efa.

Þess vegna Satans Svikinn lioot, Saalu hůs bleckia giordu, fiell hann so aa sitt eigid Spioot, Andvana datt ad Jordu.

Forda mier, Drottinn, Diofuls Slægd, og Drauma Villum leidum, Saal minni veittu Hugarhægd, med Hiaalprædis Krapti greidum, Am.

# 19. Psalmur.

## Um Reysu Josephs og Mariu til Egyptalands.

Ton, Olldungar Juda Annars Dags, etc.

UPPstood Joseph vid Ordiñ tied, ad sier took Frw og Barnid med, aa Naattar-Þeli þa til Sañs, med þeirra Fañs, afram hielit til Egyptalands.

Til þess Herodes Dauda doo, dvoldu þau bædi i Egypto, Ordid Drottiñs þar uppfylltist, sem aadur vijst, Hoseas Spaamann hafdi lijst.

Egyptalandi eg hef fraa, Astkiærañ Son miñ kallad aa. Vid skulum, Saal mijn, Efnid Eitt, wtmaala greidt, eins og Naad Drott-

Drottinns þad fær veitt.

Utlegdar Sokinn a mier laa, eilijfu Dijrdar-Landi fraa, saarann fordæmdra Samastad, og Sorgar-Bad, med Syndunum hafda eg forskull-dad.

Flootta-Madur eg heita hlaut, Heimsins raasadi Svika-Braut, Egyptalands eg Prældooms kar, og Prautir bar, yfir mig dundu Eymdirnar.

Vitiadi JEsus milldur mijn, mæddann leysti af slijkri Pijn, Prældooms Hwsinu frelsti fraa, og flest mier þaa, Hiartpræðis Bwstad Himnum aa.

A eg, minn Gud, ad þacka þier, Prældooms Oki nu af Herdum mier, kippt er i burt, enn kvittud Ønd, vid Kvijda-Bond, frelsadi mig þijn Hægri Hond.

Son þinn i Utlegd senda riedst, Samvitskann mijn og Hiartad gledst, af þvi eg vona eflaust hier, vor Augsyn þier, vijsir i Utlegd alldrei mier.

Mier er þad fyrir minnstu þaa, mig þo Verolld-inn giori hriaa, Utlegdar Tijminn eitthvort Sinn, mun endast minn, þegar uppbyriast Eilijfdinn.

Israels Foolk i Egypto, vid undra þwnga Kosti bioo, Utvalldi Gud einn mætann Mann, sem Mwsa þann, leiddi brædlega burt þadann.

Þessi var Moses hijr og hreinn, Herrans Þienari dyggur einn, Guds Bornum vegleg Frelsi fieck, fyrir þeim gieck, yfir umm Hafsins breidann Beck.

Sonur Guds, Moses annar er, med ollum Rietti Nafn þad ber, Prældooms Kvolum oss kieppti

af, og kvittun gaf, þurkadi riett hid rauda Haf.
Undann Guds Bornum gaanga ried, gegnum Reidinnar Hafs-Flooded, Belials skelsdu Becker hann, þa Banvænann, Kroßinns af-swpa Kaleik vann.
Er nu Hafs-Diwpid uppþurkad, alldrei kann oss ad dreckia þad, saum vier þurrann Farveg þar, sem Floodid var, frelstir wr Grifiu Glotunar.
Augliisti JEsus Elsku þa, Utlægur giordist Landi fraa, strax a Omaala Alldri þar, sem aaminnst var, Einsamall Præl doom Ok id bar.
Enn þu skallt Saal miin ad þui gaa, Egyptalands fyrst Kvolum fraa, af Gudi kollud eitt Siñ ert, Utvalinn bert, forgefins er þad ecki giert.
Laat þig ei aptur langa þar, fraa Landi Drottinns Goodsemdar, til Kiot-Katlanna og Kvala-Banns, þess Kwgarans, Yfir-Herra Egyptalands.
Hofdingi þessa Heims er þad, sem hafdi hier hwid Kvalastad; Minnstu einninn hvad merkia hier, Kiot-Katlarner, Vellysting Holldsins viist þad er.
Christur moladi Hoggorms Haus, wr hordu Faangelsi slapp eg laus, keypti mier Værd og Fridar Froo, fyrir mig doo, wtleiddi so fraa Egypto.
Fyrst ad eg þadann friaals er nu, fyrir þig Drottinn, minn JEsu, Inngangur Liifsins opinn staar, miin Ondinn klaar, siingi hier Lof um eiliif Ar, Amen.

# 20. Psalmur.

## Um̃ Barna-Mord Herodis.

Ton, Allfagurt Lioos, ɔſs byrtiſt brædt, etc.

PEgar Heredes heyrdi þar, hefdu hañ gabbad Vitringar, fylltiſt af Grimd og Forſi med, Fiölda Herlids wtſenda ried.

Oll Sveln-Born Liſi ſvipti hañ, sem i Betlehem Tijma þañ, Tvævetur voru og yngri eñ, eins um̃ oll nælæg Hierøden.

So sem hañ fordum Falſi med, af froomum Vitringum merkta ried, um̃ Fædingar Tijma Frelſarans, Fordæmañleg var Breitni hanns.

Andſtyggilegur er med Sann, i Augum Drottinns hvor ſæ Mann, sem ad Mordingia Sverdid ber, og ſaklauſu Bloodi wtheller.

Blood hinns Riettlæta hroopar hætt, Hefnding af Gudi Dag og Natt, med Ognar Brædi yfir þann, sem aa ſig Blood-Skulld ſafnar vann.

Cain hyrdti ei um̃ Herranns Ord, Heiptugur framdi Brodur Mord, Abels Riettlæta wthellt Blood, uppæſti Drottinns Hefndar Mood.

Nær sem þier ſtijgur Brædi i Briooſt, bid þu Drottinn þinn ſtilla Piooſt, aptra þier fialſum

allra mest, Jllrædid so ei framkvæmest.

Margur i Brædi Verk þad vann, sem villdi seginn Ogiort hann: Seiñ til Reidinnar siertu þvi, so þier ei steipir Vanda i.

Þoótt ad þier giori Menn a moot, mundu ad stilla Heiptar-Root, Hefndina Gudi giefa ber, gleim ei hvor DRottinns Riettur er.

Of flioott Braadrædi wt ef brijst, opt kiemur fram hvar skylldi sijdst, Saklausann alldrei erta skallt, annars verdur hanns Giedid kallt.

Bloodgijrugir med Svika Sid, sitt fær ei haulfnad Lijfsins Mid, Reidinn afskræmir Sinni og Saal, Særheitt upptendrar Vijtis-Baal.

Herodes framdi Vondsku Verk, var hanns Jllgyrninn helldur sterk, Saklaus Born Lijfi svipta ried, svall af Reidinni Hreckvijst Gied.

Saklaus, minn JEsu, varstu vijst, Vielrædi hiaa þier fundust sijdst, eñ þier Herodes ætlar Pijn, Ung-Borninn lætur giallda þijn.

Eg veit ad þu ert einn med Sann, Endurlausnari Gud og Mann, fyrir þijns Ungdooms Eymd og Pijn, Ung-Borninn laattu nioota þijn.

Þoottist Herodes vita vel, med Walldi ef lieti slaa i Hel, Borninn nalægum Aldrum i, ei mundi JEsus sleppa frij.

Urdu hanns Raad ad aungvu þar, Onijtti Gud þad Heimsku-Par, Endurlausnarinn um þad Skeid, a Egyptalandi Saklaus beid.

Sæ sem a DRottinn setur Traust, sæll og hoolpinn

pinn er Efalaust, HErrans vardveita Hondinn kann, fra Hættu og Slisum Gudhræddann.

Ecki var kominn enn sin Tijd, a hvorri JEsus fyrir Lijd, utfossa liet sitt blessad Blood, Bidlund Hierviştar yfirstood.

Gud hefur Beigi Otal enn, Ogudlega ad hindra Menn, oll sinna Barna Hosud-Hær, HErrann fær talid sijd og Ar.

Mooti honum ei megnar par, Magt og Stijrkleiki Veralldar, hanns Vilia einginn hindra kann hvorki Engill nie nockur Mann.

Eg veit ad Skiepnann ecki nein, a veitir mig nie giorir Mein, þegar ad Hiælpar-Hondin þijn, hlijfir mier, Gud, med Krapti sijn.

Abyggiu minni eg vil Þvi, uppa þig varpa Truinni i, Grædarinn JEsu Giædsku or, giefdu mier sæla Burtu-For! Amen.

## 21. Psalmur.

### Um Sorgar-Opid i Rama.

Ton: JEsus Christur a Krossi var, etc.

HEyrst hefur Kall a Hædum þar, Harma-Raust Ops og Kveinunar, sem Spæmann seigia nædi, Rachel Sorg mikla i Sinni bar, Sona Missirin þrædi.

Huggast vill ecki i Hormum sijn, Hiartad fyllist med Angurs Pijn, af þvilikum

wtgiørt helldur, um̃ burtu dæiñ Børn-
iñ sijn, Sæl þad Sorgluñt velldur.

Vid skulum, Sæl mijn, um̃ þad eitt, ockur til Lærdooms þeinkia greidt, hvorsu ad HErrañ sæti, vid sijn eiskuleg Børn sær breitt, bædi i Sorg og Medlæti.

Vijst er Holldinu þient med þvi, þegar þad nijt-ur Sorga frij, Gledi og goodra Daga, Harmkvæli rata ei villi, sem Ondinni best þo haga.

Margur þa hreppir Medlætid, Mystun DRottiñs ei kañast vid, sem øllum allt gott veitir, helldur med vondum Synda Sid, siaalfann Gud tijdt æreitir.

Medlæti þegar giefur Gud, gleymir Náttúrann forbliñdud, Þacklæti gott ad greida, sem Hiartans Elska hreintrwud, honum æ frañ ad reida.

Oftraust Velgeingninn upptendrar, æfvsir Holld til Metnadar, so Giafarans giætir eigi, DRottinns Velgiørning vanbrwkar, sem vitnast æ Hefndar Deigi.

Optlega Gud sijn Børninn blijd, bera lætur þvi Sorgar Strijd, med Angist, Eymd og Trega, Trwudum jafnañ lijknar Lijd, þo lijest marga Vega.

Af þvi skallt, Sæl mijn, þeckia þu, þig hefur DRottinn kiæra nu, og hijrt i Hoosi agar, Þolgood um̃ber, med þijdri Trw, þoott komi Hrygdar Dagar.

Sorg-

Sorgadi Rachel Sona Deyd, sijna klágandi Angurs Neyd, hun vill ei huggast læta; ef sömu hittir Harma Leid, hooflega skallt þu græta.

Børn og Astvini Gud þier gaf, giora mæ hann þui siælfur af, sem honum liwfast lijkar, Þolinnmædina helga haf, hun bætir Raunir slijkar.

So var Jobs fordum Sinni vart, þo sitt Afkvæmi og annad margt, med Sorgum missa nædi, sem DRottinns Barna er til Art, allt leid i Þolinnmædi.

Ei skallt þu þeinkia ad wtgiort sie, um Ast-Meñi þijn þo burt deye, fra Heimsins Vistar-Veru, signad hreppa þeir Sælgiæte, hia sialfum DRottni eru.

Von hinns Ranglæta wti er, þa Æfinn vesæl hverra fer, enn Riettlætra i Blessan blijfur, Herrann til Lijfs þa heimfærer, og Hormungar burtudrijfur.

Syrg þui ecki so sannhelgum, sie kippt i burt fra Eymdunum, DRottinn þeim Gladværd giefur, med øllum sijnum Utvølldum, i andlegu Skarti vefur.

Ei hefur nockurt Auga sied, einginn fyrri þad heyra vied, nie þeynkia þar um kunni, hvilijk Vegsemd þeim verdur lied, þa vakna i Uppr(isunni).

Endast þa Hrygd og Harma Kvein, heyrist ei Sorgar Raustinn nein, a Hædum Himna Rañs, Utvallda hendir eckert Mein, Ord DRottins þetta sanna.

O! JEsu gief mier Gledi þa, nær gánga ve eb
eg Heimi fraa, aa ſijdſta Æfi Kvolldi, ad mætti eg
ſælaſt ſiña og ſaa, Fognud i Himna Velldi! Amen.

# 22. Psalmur.

## Um Dauda Herodis.

Ton, Giædſtu Guds vier prijſum, etc.

ENN þa Herodes hafdi, hardraadur
kañad Deyd, Engill Guds ei vid taf-
di, aptur uñ ſama Skeid, i Draumi byr-
tiſt braatt, Joſeph, og ſagdi ſijdañ, Svein
med ſier taka frijdañ, og Moodur hañs
einninn aatt.

J Jſraels Land ſkollt leita, Lydnum
Egyptſka fraa, hiedañ til Heliar Reita,
horfiñ er Ovin ſaa, ſem eptir ſæktia vann,
Lijfenu Sveln ad ſvipta. Svo giordi Drott-
iñn typta, arganu Jllrædis Mann.

Saal mijn hier merkia maattu, Magt Guds og
Riettlæti, er hann aa ymſa Haattu, auglioosſa lætur
ſkie, med hordum Heſndar Sid, aa þeim ſem illa
breita, og eptir Straffinu leita, enn kañaſt ei Verk
ſijn vid.

Dauda Herodes hreppti, herfilegann uñ ſijd,
Rijkiſins Raadum ſleppti, ſem Roomverſkum fieck
af Lijd, aadur til Umdæmis, enn ſtioornadi allt of
illa, opt giordi Fridnum ſpilla, med Hrekvijſi

Hard-

Hardsinnis.

DRottins Ovinum ollum, eins lijka gänga kann, Oluckunnar Afollum, yfir þaa steipir hann, þegar þeir þeynkia sijdst, enn Gudhræddir Gledi hliota, goodrar Umbunar niota, til Huggunar Hrygdinn snijst.

Ef þier er illt i Siñi, athugaverdt' er þad, Hefnd Drottins hafdu i Miñi, huxandi um̃ Kvala Stad, hvar þu wttaka att, Laun fyrir liota Hrecki, laat þu þig villa ecki, svikulann Satans Maatt.

Fijsi þig Gott ad giora, Gudi til Þægdar nu, laat þier Uppvakning vera, Verdlaun sem hreppir þu, af DRottinns dijrri Naad, sem Kaupid good-umgreidir, og Gudhræddra Sorgum eidir; þau bid eg rækir Raad.

Allar Athafnir þi[...]aar, allijtur Gud og sier, hardar Hootanir sijnar, hrijna lætur aa þier, ef þu hañs Giædsku Gied, misbrwkar vijsvitandi, med vondu Glæpa Standi, þad hefur þraavallt skied.

Þoott ad Guds Þoliñmædi, þyrmi um̃ Stund og Tijd, seirna hanns brennur Brædi, ef Boot finst ei hiaa Lijd, mijn Saal þad mundu riett, Avöxt ef aungvann giefur, Oxina DRottiñ hefur, til Roctar Trienu sett.

Eikinn sem aa sier hafdi, ei nema Blodinn toom, þa Frelsarinn Fædu krafdi, fieck þann Riettlætis Doom, alldrei skal Avöxtur, wt af þier optar spr-etta, eptir hanns Talid þetta, vard hun visnud og þur.

Hætter vid margur meigi, miñ DRottinn, Eikur fiaa, er aa Uppſkieru Degi, Urſkurdinn ſama ſaa, af þvi ad oſ-ſein var, Ydrun og Umboot ſaña, enn Ydkun ſiifelld Glæpanna, allt til Endalyktar.

Eins og þa Oxinn ſnijdur, Eikur og Skoogar-Tre, Hefnd DRottinns hardt ad rijdur, honum ſem freſtade, Lijfernis Lagfæring, þa eirn Gud eptir þetta, med Ogn og Reidi þietta, ſijdarſta ſetur Þijng.

Margur vill lifa leingi, vid Lyſtir Veralldar, og þoott hann frekann feingi, Freſt, ſem Ninivitar, alldrei ſamt ydraſt vañ, þaangad til dapur Daudi, droo hañ Heims fraa Audi, nær þvi ſem naudugañ.

Vel þo i fyrſtu falli, fyrir þeim Illgiornu, einginn þad Audnu kalli, þvi opt ad Hendingu, yfir þaa Ogiæfann, ſnogglega i Haſti hrapar, og hreckvijſum, Alldur ſkapar, hendir þad margann Mann.

Vallt er, miin Saal, ad ſofa, i Syndum og Uggleyſi, þvilijkann Daudans Doſa, Dioful-ſins Hreckvijſi, ſetur i Sinnis Reit, hiaa þeim, ſem þeckir hreina, Þioonuſtu DRottins eina, giorir þo verr enn veit.

Saa lifir beſt i Blooma, ſem bijſt vid Ar og ſijd, hreckvijſum Heims Oſooma, hafna, ſo Daudans Tijd, Ovorum ecki hann; griipi i giordum Syndum, og Galinnſkap Holldſins blindum, Saal miin haf Setning þann.

Gief mier lijfſ Lauſnari, ad lifa ſparlega hier, ſo burt i Fridi fari, nær Fiorid lokſins þver, Guds

Barna Grida-Stad, Ond minni untu ad finna, innleid til Bygda þinna, Amen, mijn Ost er þad! Amen.

# 23. Psalmur.

## Um Heimreisu Josephs ur Egyptalandi.

Ton, Lof saung Gudi Mey Maria, etc.

JOseph took med sier Barnid bráadt, og Brwdur Dygda-giarna, heimleidis aptur hiellt i Att, til Herads Israels Barna, þar Fregnir hañ, heyrdi med sañ, ad Herodis Arfi riettur, Archelaus, ad Illsku frws, yfir Juda var settur.

Þess vegna eckl þordi hañ, þaangad Hælis ad leita, DRottiñ honum i Draumi vañ, vijra Raadstofun veita, sneri þvi ört, eptir þad giørt, i Galilæa Sveitir, sier feck med Hrad, þañ Sama-Stad, sem ad Nazareth heitir.

Þañiñ framkom hin forna Spaa, sem fiñst i helgum greinum, Nazaræus hañ nefnast aa. Nu i Mañdoomi hreinum, heilogum þo, honum i bioo, hæleitur Guddooms Kraptur, þvi skal, mijn Saal, Þaankinn og Maal, til þessa hverfa aptur.

Nazaræus Guds Son er saa, sannur Herra og DRott-

Drottinn, bloomlegur Kvistur kallast mæ, af Kyni Jesse sprottinn, ber Avöxt hrein, sw blessud Grein, betri enn Alldinn-Vidur, Hunang draup af, þeim Hiaalpar Staf, Huggun og Andar Fridur.

Adur Gud Lijd siñ Israel, af Egypto kallandi, plantadi hann sem Vijn-Trie vel, vænu i Canaans Landi: Eins JEsus hier, heim aptur ser :(Hoseas þar um sagdi:) Pad Vijntried mætt, sem Bol fær bætt, og Blessan oss til lagdi.

Pu hefur Saal mijn, þessu Tre, þveginn med Skijrnar-Badi, innplantast fast, i Ellkunne, eirn Gud so tilskickadi, þess vegna nu, nefnast ættu, Nazaræus med Sooma, Avexti ber, audsyn æ þier, andlegann Dygda-Blooma.

Ef ad Kvisturinn aungvann ber, Avöxt med Grooda fliootum, verdur hann skiott, sem von legt er, Vidar hoggvinn fraa Rootum, i Elldi þa, uppbrennast mæ, einginn Boot finnst vid slijku, Guds Hiaalprædid mier varni vid, Voda-Straffi þvilijku.

Pu skallt og vita þyrmt var sijdst, þeim Nættúrlegu Kvistum, þegar Judar med Vondsku vijst, villtir fordæmdu Christum, hardlega þa, Hefndiñ fiell æ, Heidnir Lijdir þad giordu, rupludu Torg, enn breida Borg, brutu nidur ad Jordu.

Eigann hid rotna Alldin-Tre, Avöxt goodañ ad færa, siertu daudur i Syndinne, sijdst mættu Gudlegra, Frum-Grooda þeim, og frijdum Seim,

sem

sem fagrir Kvistir bera, Groodurlaus Eik, gømul og veik, gagnlaus hlijtur ad vera.

Eins bid eg DRottiñ af þier nu, med Audmykt vesæll Madur, gief ad eg sie i sannri Trw, sialfs um þier innplantadur, og beri klaar, um Æfi-Ar, Avexti Gudrækninnar, þar til med Priis, mier veitast viis, Verdlauninn Trwarinnar! Amen.

# 24. Psalmur.

## Uñ Arlega Reysu Forelldraña JEsu til Jerusalem.

Ton, Fadir vor sem aa Himnum ert, etc.

ARlega Joseph Meyu med, til Mustiris gaanga ried, þegar ad Paaska-Haatijd hrein, halldiñ var eptir Laga-Grein; Guds Dijrdar jafnann giættu mest, giørdu hvad honum þocknadest.

A settum Tijma til so bar, Toolf Ara þegar JEsus var, Helgi-Dags Gaungu hoofu þa, Heimili sijnu burtu fraa, til Jerusalem vissañ Veg, var þad Sidvenia Haatijdleg.

Mijn Saala, þar um þeynkium vid, þegar Gud wtgaf Logmaalid, um Sabbats Dag og Helgi-Holld, hörd ælyktadi hann Sekta-Giolld, seim kanna ættu yfir þa, er Ordi Guds sier kasta fraa.

Sæ sem er Herra Hvijldar-Dags, hefur þier liett

lient til Vinnulags, Sex Viku-Daga virka hier, enn valdi einn til Dijrdar sier, þennann vanhelga ecki ætt, annars mætir þu Heфndum braadt.

Hætijdis Daga ræktu riett, sem Raads-Menn Christninnar hafa sett, Drottinn wtheimtir af þier þa, Aftar-Ged sitt ad minnast aa, lættu þvi ecki liggia i Ólie, Lofgiord, Packlæti og Gudrækne.

Glediileg Joola-Hætijd hier, Herranns Fædingu kunngiörer, er þvi skylldugt ad offrir þu, Andlegri Lofgiord, Saal mijn, nu, fyrir Giædskunnar Goodsemd þa, Guds Sonur Manndoom took sig aa.

Önnur Stoor-Hætijd er sw vijst, sem Uppnisinn bodar JEsum Christ, Sigur-Hofdingia sönnum þa, Sigur-Hroos Andlegt færa maa, vañ hann Diöful og Vijtis-Neyd, Valldinu svipti bitrann Deyd.

Mundu og Hætijd Pridiu þa, þegar Guds Sonur Himnum fraa, Heilagann Anda sendi siñ, Sanntrwadra i Hiörtunn inn, stærstu Hætijdir þessar Priaar, þier ber ad hallda sierhvort Ar.

Adrar smærri sem Arlega, iñfalla medal Christenna, med jöfnum Heidri akta ætt, Andlega i Drottni gior þier kætt, Ordi Guds hlijd og heyr þu vel. Helga Sidveniu þetta tel.

Minnstu aa David Drottinns Mann, Daglega þarvid gladdist hann, ad meiga gaanga Guds i Hws, giörandi Packir Dygdafws. Allt eins þu lijka siñud siert, Saal mijn, og þessa miñug vert.

Eñ

Enn þu skallt giefa Gaum ad þvi, þo gángir vitugg Kyrkiu i; Synd er mikil ad sitia þar, ef Saalinn ecki þeinkir par, eptir Guds Dijrd og Ordum hanns, sem utgaanga af Munni Kiennimanns.

Gaanger þu fram i Gaaleysi, sem gleimannleg-ur Heyrari, aattu skilid ad Ord Guds þad, er aad-ur numdir i helgum Stad, dæmi þig loks aa Degi þeim, nær Drottinns Reidi straffar Heim.

Lifir af Braudi Saalinn sijst, sijna hefur hun Næring vijst, af Ordi Guds og Anda hanns, sem aavaxtast i Hiarta Manns, ef soddann Vokva sinnga maa, Sadningu nooga fær hun þa.

Opt og tijdum med Munni Mann, mægur DRottinn naalægiast kann, enn Hiartad þo og Hugurinn, hvarflar ei til Guds nockurt Sinn, slijkum haalfvolgum Hræsnurum, Herrann vill skirpa af Vorunum.

Þennan varastu, Saal mijn, Sid, sie bædi Maal og Hugskotid, i sannri Dijrkun samfara, soddann Rootgroinn Alvara, Gudi Prijsemum giediast best, gagnar Saalunni allra mest.

Flapur Munnsins og flaraadt Gied, forsmaair Gud og hatar med, hann vill ad þu siert hreinn og klaar, hönum þioonandi sijd og Ar, einskiæra Myst un ollum hann, af einlægu Hiarta veita kann.

Jaata maa eg þad JEsu min, Jeg er stoorlega vangiætinn, þvi verr, ad Hiartad of-kallt er, opt þegar Raustinn hreifir sier, vona eg, Drottinn, þo aa þig, þinn Anda laattu verma mig, Amen.

# 25. Psalmur.

Um̃ þad, þegar Forelldrarnir søknudu Barnsins aa Leidinni.

Ton, Skaparin̄ Stiarna Herra hrein̄, etc.

ENN sem þeir Dagar Enda faa, aptur heimleidis geingu þa, i Jerusalem epter var, Ungur Jesus og dvaldi þar.

Han̄s Forelldrar þar hugdu ei ad, helldur fulltrwa meintu þad, han̄ mundi Selskaps Hoopnum hiaa, honum þo lijtid bæri aa.

Mætur Joseph og Maria, medal Frænda og Kun̄ingia, leitudu han̄s, sem lijklegt var, Lundinn beggia þvi hriggdist þar.

Aflokid høfdu eins Dags Ferd, aadur en̄ sw var Leitin̄ giørd, þegar han̄ fundu ecki en̄, aptur til Borgar relstu sen̄.

Heidurlegt Dæmi hafa þar, hvorier Gudhræddir Forelldrar, Afkvæmi sijn ad annast riett, wtheimtir soddann Hioona-Stiett.

Yfir Verølldar fagurt Froon, fyrstu setti Gud Ekta-Hioon, mællti fyrir hanns Milldinn̄ hær, ad marafalldast skylldu Jørdu aa.

Afkvæmis Rækt og Elsku þvi, inngaf hann þeirra Hiortunni, Adgiætslu Vakt og Varatekt, vijst heimtir Drottinn af þeim frekt.

Hinar Skynlausu Skiepnurnar, med Skickun sinnar Tegundar, leggia ei stoora Vanrækt vid, vakta helldur sitt Afkvæmid.

Miklu ædri er Madurinn, mentadur vel med Skilninginn, honum ei ætla minna mäa, mikid vardar um Skylldu þa.

Goodum Forelldrum Angur er, nær illa Börninn hegda sier; goodri Skickun ef giæta ad, Gledi Tvofalldrar aflar þad.

Fadirinn Tarum flijtur i, Fordiörfun Barnsins velldur þvi, Moodirinn Saarañ grætur good, geingur þad so hiaa hvörri Þiood.

David harmar sinn dauinn Son, deya vill fyrir Absalon; Jacob særist af Sorgar-Pijn, ef sinn skal missa Beniamin.

Sunamitis med saarann Mood, Swtir bar fyrir einka Jood, lagdi i Kiolltu siukann Svein, syrgia giordi hanns Dauda Mein.

Skiedi hier eins og aaminnst var, Astrijkir JEsu Forelldrar, söknudu Barnsins Sorgbitinn, af Swtum fylltist Hugurinn.

Mikil var Sorg ad missa þann, sem Missir allann bæta kann, Harmar þvilijkir heimsocktu, helgann Joseph og Mariu.

Hendi þig sama, Saal mijn, nu, Sorgfull ad JEsu leita þu; sa sem hann missir, missir allt, Manna Fullsælingid reinist valt.

Þegar ad lukkuskin skallt hier, Þrældooms sinn vid Tiallbuder, gaunga Veg allrar Veraldar

ar, vel þu JEsum til Samferdar.

Sw er hin mesta Sœlar-Neyd, ad sakna hañs œ þeirri Leid, og Oviist hvört þinn Andinn kann, ápturſnwa og finna hann.

A þeirri Stundu eg þig bid, ei mijna Sœlu ſkil-jer vid, Drottinn JEsu, sem dooſt a Trie, Dauds-inn er þa minn Abate! Amen.

# 26. Psalmur.

## Um Leitina eptir JESU.

Med sama Lag.

MInnunst vid Saal mijn enn þar œ, sem œdur fyrri hvarf eg frœ, Liwsir Forelldrar Lausnarans, leitudu strax þa sakna hañs.

Þeinktu hann væri œ Veiginum, hiœ Vina-Foolki og Nœfrœndum, Goodum Selſkap þvi vanur var, visſu þad og hanns Forelldrar.

Lœttu ei Barn þitt veniaſt vid, vondann Sel-ſkap og Hreckia-Sid, af þvi ſpilliſt hinn Ungi Mañ, Odygd og Glæpi nema kann.

Gudhrœddra Sid og Samfelag, ſiœ til hann ſtundi Noott og Dag, mikid gott hann þar odlaſt af, Athugaſemd œ þeſsu haf.

Þoott hann med goodum goodur ſie, Gudlauſ-ra Manna Hreckviiſe, til Vondſku tijdum venur þann, sem velur ſier Selſkap þvilijkann.

Sida-Spillir er Samtal illt, Son minn ef þet-ta fordaſt villt, goodann Munn-Sofnud ven þig

vid,

vid, varastu Last og Bak-Talid

Hid vonda Tijdum audnæmt er, inn i Hiartad pad smeigir sier, peir elldri gaanga Gyrndum i glæpist Barnid a Agni pvi.

Natturann Holldz er nærsta treg, ad nema sannann Lijssins Veg, goodur Vani po giorla kan, ad giora Ungdoominn Sidprwdann.

Undann ad gaanga ættu peir, sem Arum safnad hafa meir, af peim lærir hinn Ungi pa, allmikid petta stoda ma.

Sidferdi gott ef Barn pitt ber, Blessunar Drottinns aflar sier, goodrar Skickunar Gud er han, giæta skylldi pess sierhvor Mann.

Laangtum betur enn Lærdooms Ment, soos Eftirdæminn gieta kent, hvad Augunn lijta, optast nær, Inngaang i Barnsins Hiarta fær.

Hasist pu Lastlegt eitthvad ad, ei laattu Barnid horsa a pad, Gott pegar nockud ydia ma, Adferdina pad laattu sia.

Ei veitst pu nema eitthvert Sinn, Avoxt færi sa Sidvaninn, Og Barnid eptir breiti pvi, sem heist er pijnu Fari i.

Nær Drottinns Ord er hast um Hond, hellst sieu Borninn til pess vond, ad hlijda Lestur helgann a, hyra kunna pau um pad pa.

Andi Drottinns sem Ordinu, æsamt byggir i Hiartanu, po einginn petta merki Mann, Menta hrs innra Barnid kann.

Af pvi spretta peir Avexter, sem ytra giarnann

hreifa sier, Andinn smaamsamann eikur vid, in̄ til
þess Barn er fullordid.

J þeirra Hoop, sem þennann Sid, þraavallt
Kostgiæfnir hallda vid, viliandi Barn þitt vera
laat, vandlega haf aa þessu Gaat.

Barnid ef Tiidum venst þar vid, verdur þad
loks ad hvorndags Sid, Gudhræddra Selskap
siidann i, sannlega maatt þu leita ad þvi.

Bid eg JEsu, ad Børninn mijn, Barn Æsku
mættu nioota þijn, sannra Guds Barna Sam-
neyti, sie þeim til Reidu i Dyrdinni, Amen.

# 27. Psalmur.

## Um̄ Samtal Christi vid hina Skriptlærdu i Musterinu.

Ton, Hærsti Gud Herra milldi, etc.

EPtir Priaa Daga dijran̄, Drottin̄ i
Musteri, fundu med Huga hijrann, han̄s
blessud Astmen̄t, Fedran̄a midt aa milli,
Maal þeirra hlijddi aa, vondra þo Flock
ei fylli, frooda spurdi med Snilli, hvør
Man̄ þad heyrdi og saa.

Undrudust allir þetta, ad-daaдust Sv-
orum han̄s: Aungver þo epter frietta, Alvitsku
Frelsarans: Meintu hann mundi vera, Madur en̄
ecki Gud, Spurningum skiirt wr skera, Skilning
ecki til bera: Þvi Vitskan̄ var vantrwud.

Frelsz-

Frelsarinn fræddist eigi, þo frooda spyrdi hann, Helld eg vijst meina megi, muni hann Tijma þann, spurt hafa ad Spaadooms-Greinum, sem spialla Ritningar, Messia wt af einum, og hanns Guddoomi hreinum, hvorn Foolk ei þeckti þar.

Til þessa lijtid logdu, Lærifedurnir þaa, Timbur-Manns Son hann sogdu, seirna ef minnst var aa, lasta hans Guddoom giordu, gaafu þad Lijdnum inn, med Prioostsku Hiarta hordu, hann væri eirn aa Jordu, Fals-Manna Foringinn.

Skrifternar þoott þeir þeckti, þad var samt undraverdt, ofmiog þa Blindninn bleckti, blijdum Guds Syni þvert, jafnann afneita naadu, nærsta tregir i Lund, sijns Andargagns ei gaadu, gooda Kienning forsmaadu, nyttu ei Naadar Stund.

Af þvi ad ecki hafdi, aa Bækur JEsus lært, Alþijdann Andsvars krafdi, i Spurs-Maal gat þad fært: honum hvadann ad kiæmi, Hygginda Vitskunnar? Uppaa hans agiætt Næmi, ei þoottust finna Dæmi, hiaa odrum einshaattar.

Optar enn Einusinni, uppfræddi JEsus þar, lagdi æ minni og minni, Mugurinn Tru þar aa, hneixludust hryggilega, aa HErranum Christo þar, med Hiartans Heimsku-Trega, hæddu hann marga Vega, og aareittu allstadar.

Johannes fyrst þaa fræddi, um Frelsarann JEsum Christ, wt af Ritningum rœddi, Rodd hanns-miog vijdfrægdist, Riettlætis Veg nam vijsa, villdu ei Judar þo, eptir hanns Ordum hnijsa,

uppaa mooti þeim riisa, Prioortskañ i Þanka bioo.

Hier trwi eg HErrañ geingi, aa Hoolm vid Juda fyrst: Striid þo ei stædi leingi, strax af þvi vitnadist; hann mundi hina vinna, ef herdti nockud aa, mooti þeim Forsvar finna, Flaattskap þeirra ei siña; sem Gudspioll greina fraa.

Trwa vil eg Otregur, Tign þinni JEsu klaar, eingietinn, elskulegur, ertu Guds Sonur haar, Fodursins fagur Lioomi, friidasti Monnum hiaa, þiñ Priis aa Hædum hlioomi, i Heiminum Lof þitt roomi, allt þad sem anda maa! Amen.

# 28. Psalmur.

## Uñ Samtal Christi og Mariu.

Ton, Seldi Pilatus Saklausañ, etc.

PAA Hioonuñ Son Guds saau riett, sitia i Kyrkiu tuñ, hnickti þeim vid, eñ Lund vard liett, þvi Lærdooms Stiett, æfdi med Ydkunuñ.

Maria sagdi so til hañs: Son miñ, þvi giørdir þetta ? vid hefum leitad laangt til lañs, med dapruñ Dans, til þiin ei feingum frietta.

Helgum Joseph og hlirri Frw, HErrañ ried Andsvar veita: hvoriu giegnir þid hafid nu, med holla Trw, harmandi giørt miin leita?

Vissu þid ei mier vera bar, i Verki op-
 inberu, þeim Hlutum frekt til Fyllingar
 og Framkvæmdar, Fodur mijns sem ad
 eru?

Adur Maria Angur hlaut, unga JEsum þrey-
 andi, enn nu Gladværdar Yndis naut, unnin var
 Praut, aptur sa hann lifandi.

Guds Barna Kior þad eru enn, optlega i Ver-
 olldinni, eina Stund mædir Angisteinn, og adra
 senn, aptur er gladt i Sinne.

Deyda og lijfga Drottinn kann, daglega þann-
 inn breitir, um lijtinn Tijma hryggir hann, og hrell-
 ir Mann, Huggun eptir ꝏ veitir.

Riettlæt Maria reindi þad: Raunamood ꝏ-
 vijtadi, æstkiærann Soni sogdum Stad, fyrir sin
 Verknad, sig JEsus forsvaradi,

Hanns var ad sonnu Moodir Mey, Moodur-
 Riett hafa villdi, Hlijdninnar giætti; Og hier vid
 ney, hann sagdi ei, hitt kvad i meira Gylldi.

Monunum Drottinn meiri er, i Makt og Kraf-
 ti hreinum, Honum þvi framar hlijda ber, þad ho-
 sum vier, heyrt i Ritningar Greinum.

Af sijnum Fodur sendur var, Son Guds i Ast
 og Milldi, fyrir þvi einu allstadar, Umsorgun bar,
 Eyrindid rekast skylldi.

Pad var ad leggia Lijdnum Braut, til Lijfs og
 Dijrdar Vista, þess vegna Christur Hormung
 hlaut, og harda Praut, i Heiminum vard ad gista.

Fodur sins Vilia framkvæmdi, frelsadi Menn

a Jördu, yfirvann Deyd og eilijft Spie, andvana a Tre, aflauk þvi Strijdi hordu.

Ecki Maria undirstood, Ordiñ er JEsus sagdi, helldur þau Svörinn greina good, sem Geimslu Siood, Gullvæg i Hiarta lagdi.

Þeynkt hefur eptir þessu fyrst, i Þeli Vitsku rijku, þar til Ritning sem ræddi uñ Christ, vel vitnadist, og verda took Raun a slijku.

Spaadoomar allir uppa hann, opinnberudust sijdar, so hreina Þijding heyra vann, hvor Christ-inn Mann, uñ Heimsins Bygdir vijdar.

Fyrst þu, minn JEsu, fullkominn, Fodursins giordir Vilia, alldrei laat Holldid inngrooinn, Illviliann minn, ockar a millum skilia, Amen.

# 29. Psalmur.

## Uñ Hlijdni og Undirgiefni JEsu vid sijna Forelldra.

Ton, Sa frials bid Logmaal fæddur er, etc.

FErdadist JEsus þa med heim, þadann a samri Stundu, oll til Nazareth hielldu heim, holla Naagranna fundu.

Forelldrum hlijdiñ Frelsariñ, fañst þar i ollum Greinum, auglijst sig hañs Audsveypniñ, med Astar Þela hreinum.

Lærid af JEsu Borniñ blijd, Blessunar er þad Merki, heidrid Forelldra þæg og þijd, þad i Ordi

sem

sem Verki.

Hann sem ad allra ydar er, eirn Gud og Fadir lijka, Forelldrum giordist hlijdinn hier: hvrid umm Audmykt slijka.

Gud i Manndoomi Mønnum var, med mannlega Skickun besta, undirgiefinn, so eckert þar, uppaa kunni ad bresta.

Sijnum Fødur a Himnum hann, hlijdugur giøraft naadi, viliugur kom, og villugann, viliandi Foolkid hriaadi.

Fyrir þig giordist blessad Barn, Barn Guds so verda mættir, syndi med Hlijdni Hlijdnis giarn, ad hlijdinn vera ættir.

O! Hvørsu feck þig Audmyktinn, O! JEsu, nidurlæckad, so nidurlægdann Prælinn þinn, þu seingir aptur hæckad.

Fyrir hanns Skulld þig, Barn mitt, bid, bid þu mier eirninn medur, ad hlijdid lærir soddan Sid, Sidur saa DRottenn gledur.

Allt so leingi sem Gud er Gud, goodum Hlutum raadandi, æ verdur Hlijdninn umbunud, øllum DRottni þiónandi.

Allt so leingi þu Barn, ert Barn, i Barns Minni skal þier vera, ad hann vill laata þig Hiaalpar-giarn, Hlijdninnar Laun uppskiera.

Þijnum Forelldrum um þu ert, Elsku og Hlidni skylldugur, alls sem þau hafa gott þier giort, giarnann sie[illegible] minnugur.

Jardneskum Manni aungvum aatt, ødrum betur

ur ad unna, i ollu þvi sem megna mætt, minnstu þeim Þackir kunna.

Hafa þau þig i fyrstu fædt, fæddann daglega alid, alinn æ hollum Kosti klædt, klæddann til Menta valid.

Af þeirra Holldi Hollð ertu, med Heyrn og Sioon lifandi, þijn Saal af Saalu þeirra nu, þrævallt er fast hangandi.

Ahænga þvi i Elskunne, ætttu Fodur og Moodur, Lidsemd og Styrk þeim lata i Tie, liwsur og Vidmoots goodur.

J Minni jafnann þier sie þvi, sw þwnga Hefndar Þijna, sem Ohlijdnir rata eiga i, ef afrækia Skylldu sijna.

Vanblessunar þad Ordsöker, Eptirkost mun og veita, ef vid Forelldra þijna, þier, þu giorir illa breita.

Laat þier Absalons Ohlijdne, alldrei wr Minni lijda, þegar hann rænti Fridi og Fe, Fodur sinn David blijda.

Pa Gangvaranum geisi hast, gierdi til Strijds ad hleipa, hanns i Trenu vard Hærid fast, hendti hann Daudans Sneipa.

Tobiæ Dæmiñ Dygda frood, daglega i Þanka festu, hreppti hann Laun af Gudi good, Giæfu og Luckur bestu.

Fadir Lioosanna eins mun enn, af Elsku vid þig giora, ef þu yld Gud og Yfirmeñ, æstundar ylijdinn vera.

Gief

Gief þu i allra Barna Briooſt, bliidi JEſu, kiñ Anda, ſo vid Forelldra leynt og liooſt, læri i Hliidni ſtanda! Amen.

# 30. Pſalmur.

## Uñ daglegañ Þroſka og Framſør Barnſins JESU.

Ton, Til þiin Heilagi HErra Gud, etc.

Eins dææſamlega og Upphaf tookſt, æ hañs Mañdoomi ſonnum, Alldur og Vitſka JESU jookſt, jafnt þvi hiaa Gudi og Mønum, Naadar-Hylli; ſem Gudſpialls Grein, glögglega vottar ſkiir og hrein, leid ad Embættis Onum.

Andſtygd er þad ef Alldurinn, eikſt med Laſtaña Greinum, ſrekaſt og verdur fullordiñ, i Flærd og Glæpum einum, æ angraſt DRottinn og hatar hañ, ſem hefur Lifnad þviliikañ, elſkaſt hañ ecki af neinum.

Agiætt er hitt ef Alldurinn, eykſt i Dygdunum hreinum, frægur verdur og fullkominn, med Fremd i ollum Greinum, eirn Gud fagnar og elſkar þann, ſem æfir Lifnad þviliikañ; Þo hatiſt af illum einum.

Alldur og Vitſka æ einum ſeñ, allvel til ſamans ſkarta, O JEſu, læættu Ungdoomenn, odlaſt þitt Liooſid biarta, ſo Vit med Arum vaxi þeim, ſem vanvitugir komu i Heim, og odleſt hygged Hiarta.

Vegna þeſs Æſkann afræker, opt og tiidum ad læra, og hiegoomlega hegdar ſier, hatar Uppfrædíng ſkiæra, Ellinn i Bernſku æfraſt dregſt, Oovirding

ing a þañ gamla leggst, sem Heimskuna hefur klæra.

Skuli Hærurnar Heidur fa, og halldast i mikla Gilldi, Æskann hlijtur ad audgast þa, af þvijsem feirna villdi, prijda med dosinn Elli-Ar, ef Alldurinn kañ ad verda haar, ungur þad skynia skylldi.

Opt er gomlum til Yndis þad, sem adur læra gadi, hinu er honum Angur ad, sem ungur forsooma nadi, alldradur heimskur ei fær Prijs, er þeim Grahærdu Sneipann vijs, ef fer ad rasandi Radi.

Enn sa hyggni þo ungur sie, Æru tvofalldrar nijtur, Vegsemd, Hylli og Vinfeinge, af vitrum Monnum hlijtur, sinna Forelldra Sæmd er hann, sialfur kallast eirn Gieæfu-Mann, ef þad ei af sier brytur.

Er þo hin mesta Audna siv, Æsku-Mannsinsi Heimi, Astar DRottins ad niota nu, so Nadiñ ad honum streymi, eins og reñandi Uppsprettra, sem af-þvær Kamid bernsklega, betra er þad brendum Seimi.

Oss sa þad Gudspialls Ordinn keñt, sem adur gieta nadi, ad prijdt hafi JEsum þetta þrennt, Þroski med Vijsdooms Radi, hia Gudi og Monnum Nadinn neyt, þo nyti þess lijtt ad Juda Sveit, þa hann var hier a Ladi.

Uppvextur hanns og Æskann klar, med adursogdum Hætti, þanninn framleid um Þriatijü Ar, þar til hann sitt Embætti, berlega a Jordü byriad feck, og blessadur Herod krijngum geck,

synandi sitt Almætti.

Hefur þu JEsu, Barnid blijdt, Barn-Æsku þannig mijna, med blessudum Digda Blooma prijdt, bid eg nu Giæsku þijna, Ungdooms Verdugleik allann þinn, Audmykt, Hlijdni og Bloods Kraptinn, ætijd laat aa mier hrijna.

Fyrir þijn Ungdooms Arinn blijd, Ungdooms Brestunum mijnum, glymdu nu, Hiartans Giædskañ þijd, Goodvilia eptir þijnum, sivo nija Fæding, nija hier, Raad og Styrkleika veitti mier, af klaarum Krapti sijnum.

Þocknist Gudi ad giora mig, græaann af Ellis-Haarum, til þyn, Elskann mijn ææstwdlig, Andvarpa eg heitt med Taarum: Drottinn Alldradi Daganna, sem daalijtill komst aa Jordina, styrk mig aa Alldurs Arum.

Framar vil eg þig bidia bert, Barnid JEsu Astkiæra, Barna miña þu Broodir siert, Blessun virdist þeim færa, Bernsku Faafrædid fraa þeim tak, svoo yfir þeirra Saalum vak, Guds Otta laat þau læra.

Hef eg um̃ Stundir Sinni og Saal, svalad ad Vilia sijnum, hlioomi mitt bæd Barna-Maal, blijdt fyrir Eyrum þijnum, þennann Skatt Penning skylldugann, skoda, JEsu, og medtak hann, golldinn af Munni mijnum.

Velldi, Kraptur, Lof, Vegsemd, Prijs, Virding Hatignarinnar, Æra og Makt, þier æ sie vijs, Unnustinn Saalar minnar, um̃ Vötn og Grund-

ir Veralldar, vijdfrægist Nafn þitt allstadar, i Kongstivorn Christni þiñar, Amen.

# Psalmur.

## Ut af Fædinguñi Christi, (Sr. M. E. S.)

Ton, Hiartad Þankar Hugur Siñi, etc.

UNdarlegur Fridar Furste, sem Fodur-Nafn fraa Eilijfd ber, undarlega æ þig þyrste, til Eilijfs Lijfs ad hiaalpa mier, Lijssins Gud og Lioomi klaar, Lioossins wt fraa Fodur gaar, einnunn Gud-dooms Sæti sijnu, so ad klæddist Holldi mijnu.

Hvoriu sætir, hvoriu velldur? Hvilijk mundi Orsokinn, ad þu giordist Sörgum selldur, sannur Madur? JEsu minn! Aumkandi þitt Auga saa, i Faangelsi þungu eg laa, hvad uñ Eilijfd hefdi bundid, ef Hiaalpar Raad ei væri fundid.

Vijdt Helvijtis Ginid gapti, Guds Eilijfa Reidi brann, eingra Bæna unnt var Krapti, eckert Hroop þvi megna vann, ad semia dijra Sattargiord, so var Drottinns Brædi hörd, einginn leyst gat annann Broodir, wt þo sijnu hellti Bloodi.

Gud Uppspretta allrar Milldi, og Kiærleikans Botnlaust Haf, sinni Skepnu vægia villdi, vegsamlegt þvi Frelsi gaf, enn þad kunni alldrei ske, utann hann af Meyunne, siaalfur fæddist sannur Madur, Syndlaus, Hreinn og Ofleckadur.

Rijs

Rijs upp Madur af Svefni Synda, siaa þig betur nu um kring, þu med Giætni þier imynda, þinna Glæpa Sviwirding, mooti vondum Synda Sid, siaa Guds stranga Riettlætid; so ad feingist Saatt og Fridur, Son Guds stie aa Jordu nidur.

O! vors JEsu Elsku Mæti, O! þad Kiærleiks Diwp frabært, hærstur Drottinn, hvors Riettlæti, heitast brennur Loga-skiært, Syndum mooti og Synda Daad, soddann Wijsdooms hitti Raad, ad sig ei spara sialfann villdi, so Madurinn frelsast skylldi.

O! Þu Kvinnu sæla Sædi, sialfur Hoggorms Trodarinn, hvorrar Saalar Harma-Flædi, hiadnar þar af, JEsu minn, ad oss villdir aumum hiaa, eiga Dvol, og þvi mun saa, vondi Satan Verdkaup hlioota, vill hanns Hofud JEsus brioota.

Gud vor sialfur giordist Broodir, Gud þaa klæddist Holldi Manns, Syndugri af sinni Moodir, Syndlaus fæddur er til Sanns, helgra Engla Filking froom, þann fær ei skodad Leindar-Doom, enn hann liet sijst oss hulid vera, þad Holld og Blood ei opinnberar.

O! mijn Saala Hollds i Hreise, hrind þu Kvijda Þaunkum wr, JEsu Hiaalpar Hond þig reiser, hann þinn Skiolldur er og Mwr, þo ad Satan sæki ad þier, sijnum Broddi fyrdtur er, Gud fyrir JEsum Giædsku sætur, Glæpi og Syndir nu forlætur.

Ef þu horir ei Andvarpandi, inn fyrir Gud i

fullri

fullri Von, Þeynktu JEsus Þier unnandi, Þinn er Brodir og Guds Son, Trigdafasta Hiartad hanns, a Hormum Þijnum giorir Stans, Huggun veitir, hiaalpar, stidur, hier ad auki fyrir Þier bidur.

Nær mitt Hiarta saart aasaka, Satan vill og Hormum slaa, eg skal vijkia ei til Baka, ollu helldur minnast Þa, aa Jordu nidur JEsus stie, jafnann so ad medtake, særdra Hroop vid Sorga-Kijfid, og Syndararnir hefdu Lijfid.

Idrunar mier unn Þu Taara, O minn Gud, so lijki Þier, einninn JEsu Kiærleik klaara, kienn Þu riett ad Þeckia hier, Hollds Skynsemi hellst er mirk, Þinn helgi Andi veiti Styrk, Þa Hiartad mitt er halldid Trega, ad hroopa aa JEsum riettilega.

Þijn mier Nadinn Þar til bendi, Þad eg Jesum aalijte, lijka ad hanns Voggu vendi, vafinn Reifum Þar hann sie, um Heimsins Skraut ei hyrdti Þar, i hordum Stalli fæddur var, saña Audmykt Sooma-skiera, so eg mætti af honum læra.

Andi Guds mitt hneigi Hiarta, og helgi Þad til Dijrdar sier, so JEsus Lijfsins Liooslid biarta, lisa mætti og bwa i mier, vid hvort eitt Spor i Harma-Dal, til Himinsins sem gaanga skal, uñ Þu mier Þo Eymdiñ Þiaai, eg i Trwñi JEsum siaai.

Vid miñ Trwar Stoolpa sterka, standa mun eg glædur Þa, Kraptur Satans kañ ei verka, kippa mier Þar burtu fraa; uñ miñ JEsum, Lyknsem lier, i Lijfi og Dauda helld eg mier, so eg verdi sviptur Trega, Saaluhoolpinn Eilijflega, Amen.

# Registur.

A.



E.



F.



G.



H.



J.



M.



O.

O.



S.



U.



V.



Þ.





